# Frásaga,

um þá stóru uppvakningu, sem skédi í Zezenow í Bak=Pommern, öndverdliga á 18 öld.

---

Eptir almennri sögn var ástand safnadarins í Zezenow ádur yfrid slæmt og hörmuligt. Þar drottnadi ecki adeins stór fávitska (í andligum efnum), heldur geingu þar og svo grualigar syndir fjöllum hærra; og þad þvílíkar, hvörra ecki gétid er í mörgum stödum. A innbyggjurunum lá allstadar íllt ord fyrir fjölkýngi, svo eingin vildi vera nágranni þeirra, þar eingu var óhætt fyrir þeim. Til ad burtudrífa myrkur þetta og þessa slæmu lesti, þóknadist gódum Gudi, ad láta ord sitt predikast þar medal þeirra, af sínum trúlynda þénara Herra Beyer, sem var sonur eins umbodsmanns þar í sókninni. Hann var á sínu sjöunda ári til fánga tekinn af nádinni, og í frá þeim tíma geymdur frá heiminum; jafnvel þó hann, eptir sínu frígédja lunderni, hefdi margt stakligt í fari sínu, sem hvör

einn ecki féck skilld. Hann hafdi stóra andsÿgd á allri hræsni, og vildi þessvegna naumast gánga til neins af Professórunum, þegar hann var Stúdent í Halle, þar hann sá, ad margir Studentar hræsnudu svo ákafliga fyrir þeim.

Þegar hann vart var 19 ára ad aldri, vard kallid í Zezenow laust; en af því hann var kunnugur yfirforsetanum í Massow, og skildi þad kassúbiska túngumál, sem talad var þar í héradinu, var hann strags kalladur. En þar hann var svo úngur og qveid vid ad predika (þar hann vissi, ad margur, sem predikar, talar minst af eigin reynslu), hafdi hann sig leingi undan því. Þó af því yfirforsetinn stód á því sama, og féck Prófessórana í fylgi med sér, gaf hann sig loksins til þess, vid endalok síns tvítugasta árs.

Nú hugsadi hann, sem nýordinn Stúdent, ad hann ei mundi standa sig í yfirheyrslunni. Prófastur Hra Porst hafdi og svo fyrst í stad nockud í móti hønum í því tilliti; en sem Beyer þackadi hønum af hjarta fyrir, ad hann vildi frelsa sig frá þeirri embættisbyrdi, fyrir hverri hann svo mjøg qvidi, féck Prófasturinn strags annad hljód, klappadi med vinsemd á herdar hønum, og mælti: o! fyrst þér erud sona sinnadur, þá farid í Guds nafni til Zezenow; eg óska ydur til mikillrar blessunar! Svo hlaut hann þá endiliga ad takast embættid á hendur.

Þegar hann nú átti að halda sína fyrstu predikun fyrir söfnuðinum, kveið hann fyrir því, af því hann kunni ei rétt vel það Pólska túngumál, en var nærstum orðinn afvanur því kassubiska. Hann vildi skrifa á Pólsku, en gat ecki fest í minni það sem hann skrifaði; hljóp svo tíminn fyrir hann að stúdera, svo han géck í prédikunarstólinn nærri því ótilreiddur, en þó í trúnni, og predikaði með stórri greind og diörfúngu í því kassúbiska túngumáli.

Hér hófst nú byrjanin til þeirrar stóru uppvakníngar fólksins. Hans tilheyrendur tóku strags að óttast hann, þegar þeir heyrðu hvað hann væri ráðvandur, og sáu líka berliga hans frábærliga góðu hegðun.

Þeir þeinktu, ef sá fyrri Prestur var svo slæmur við oss, að hann með harðki og háreisti klagaði oss og fordæmdi sem galdrafólk og verstu manneskjur, hann sem þó ecki var nærri svo heilagur sem þessi, þá verður þessi fyrir víst enn nú verri, þar hann er svo ráðvandur. En þeir drógu sig á tálar í þeirri sinni meiníngu; því hann beitti hvorki ádeilum né of-stopa við þá, heldur lagaði sínar predikanir svo, að hann setti þeim christindómsins sanna ásigkomulag mjög þægiliga fyrir augu, og sýndi þeim ofaná, hvað Guðs náð megnaði, nær henni væri rúm géfið, og hvörsu sælufullt ástand það væri, sem ein sannchristin manneskia lifði í.

Hann umgéckst sømuleidis mikid vingjarnliga og hjartanliga hvørn einn, var mjøg gladvær í sinni framgaungu og lifaudi í øllum sínum verkum.

Eptir hálft ár lidid, lét sig i liósi sá fyrsti ávøxtur hjá einum manni, hvørn adrir héldu trubladan og ørvæntinn, og þarstil daudliga sjúkan; en Presturinn merkti sirags, ad þad ecki var svo mjøg hættuligur líkama sjúkdómur, sem ad hønum géck, sem tilfinníng hans sálar sjúkdóms. Sídan fángadi Guds ord hjørtun hvad eptir annad, vakti í þeim blygdun og ángist, og leiddi þá og dróg til þeirrar sælu ályktunar, ad ofurselja sig drottni Jesú Christo. Margir andvørpudu heimugliga, sumir auglýstu hvør ødrum ástand sitt, en einginn vildi láta Prestinn neitt þar af vita. Orsøkin var: med svo hjartanligum kjærleika og gladværd, sem hann umgéckst alla, svo nákvæmt plagadi hann ad opinbera hjørtu þeirra í predikunum sínum, sem kom af djúplægri andligri reynslu hjá sjálfum hønum. Þegar nú tilheyrendur hans fundu, ad hann snerti svo samvitsku þeirra, tóku þeir ad hrædast hann, svo ad þeir þordu ecki ad koma til hans, þar þeir hugsudu ad hann vissi allar þeirra syndir, og mundi því ávíta þá fyrir þær. Þar af flaut þad, ad þó allareidu væri svo vídt komid, ad ýmsir hér og þar hefdu gjørdt innbyrdis sam-

tok til ad eptirfylgja Jesú, þá vissi hann enn nú ecki, af nockurri uppvakuingu með'al þeirra, sem þó hefdi betur farid ad hann vitad hefdi, til ad kénna þeim ad taka alldeilis rétta þánkastefnu.

Svo leid nú lángur tími; Drottins verk jókst í leyndum; og sá gódi Prestur plágadi sig opt med þeim þaunkum, ad hann erfidadi til forgéfins, þar hann þó hjartanliga lángadi til, ad ávinna Drottni sálir til handa. Hann komst ad sönnu ad því, ad stórglæpaverk hættu; hann heyrdi hvergi kvartad um þjófnad edur önnur ódáda-verk sem ádur, en hann vissi þó ekkert af sinna tilheyrenda sönnu umvendun. Loksins komst hann ad um nockra, hverjir þá skirdu hönum frá ástandi sínu og annara. Hverjum mundi þetta kjærara vera, enn þessum trúlynda erfidara, ad hans erfidi ecki hefdi verid án ávaxtar? Hvad mundi betur géta styrkt hugdyrfd hans, og framar uppvakid kostgjæfni hans og trúskap, enn sú glediliga fregn um svo dæiliga blómstranda útsædi? Hann komst ad orsökunum, hvers vegna þeir uppvöktu héldu sér svo duldum, ad þad ecki var af mistrausti til hanns, heldur af skamfeilni og blygdun yfir þeirra ádur framda vonda líferni, og þó mestpart ótti fyrir þeim ómmvendtu og spotturum. Svoleidis báru þeir stóran ótta fyrir sínum Fóveta (edur Syslumanni), sem var freknr Guds ótta spottari. Þessvegna tóku þeir

sig saman, og báðu Guð í einum anda, að umvenda sínum Jóveta, því þá skyldu þeir opinbera sína sinnisumbreytíngu hvörjum manni. Og — hvað gjörði Guð? Hann gat ecki látið svo margra sálna andvarp vera til forgéfins; hann greip því með makt Jóvetans hjarta, sigraði hann, hvörsu mikið sem hann móti hönum stóð, og gjörði á stuttum tíma, fyrir sinn náðarkrapt, af stórum spottara, sannleikans opinberan játara. Undir eins og söfnuðurinn sá nú, að sinn Jóveti feingið hafði annað sinni, þá auglýstu sig hugskots-þánkar margra, og náðin braust fram með makt. Þeir, sem áður voru af henni fángaðir opinberuðu sig nú, og sumir voru svoleiðis sleignir í samvitskunni, að þeir gátu ei leingur sett sig móti sannleikanum. Maður fær ei nógsamliga útmálað, hvað í frá þeim tíma lét sig í ljósi fyrir náðarinnar verkun. Uppvakníngin var nær því almennilig í Zezenow og Puploz. Sumstaðar voru 20, sumstaðar 30, sumstaðar 50 manns, sem í einum hóp køstuðu sér á kné, eður féllu fram á sín andlit og leituðu Drottins. Hérum 120 til 130 komu saman í kyrkjunni, eður vörpuðu ser úti á mørkinni á jörðu niður, og hrópuðu sárgrætiliga til Guðs um náð. Þar vár þvíllík voldug hræríng í hjörtunum, að það fólk sem erfiða hlaut heila daginn, eyddi samt heilum nóttum til bæna og ákalls, og þegar því gafst lítil frístund um daginn til að taka sér mat,

brúkadi þad hann til bænagjørda. Þeir voru jafnvel um hávetrar tíma heilar nætur í kyrkjunni, vegna þess þeir høfdu eckert annad pláts til ad koma saman í.

Presturinn hafdi einga hvíld, nótt né dag, svo þegar hann vegna stórrar þreytu lagdi sig stutta stund í sænginа, í klædum sínum, hlaut hann strags ad vakna aptur vid óp þeirra vesælu syndara, sem lán á knjánum í stofu hans, og ákølludu Gud um nád. Þetta var bædi sorglig og gledilig sjón. Svo ypparliga hluti gjørdi Gud vid sálirnar í søfnudi þessum. Jafnvel þó margir reyndust nú ecki nádinni trúir, heldur léti þann fyrsta elld útstockna, og kjæmust þvi ecki frá daudanum til lífsins, samt var gódur hópur þeirra, sem ødludust nád og réttlætíngu fyrir Jesú blódugu forþénustu, og komust því til fullkominnar fullvissu um sinna synda fyrirgéfníngu, fyrir vitnisburd heil: anda í hjørtum þeirra; og hinir sønnu fóru varandi frá ljósi til ljóss, frá krapti til kraptar, frá lífi til lífs, sem réttlætisins tré, pløntud vid rennandi strauma Guds miskunnar í Christo.

Í frá þeim tíma þverrudu og svo allir opinberir klækir medal sjálfra þeirra ómvendtu; svo þeir án Prestsins sérligu áminníngar løgdu øldúngis af øll spil, allan dans, dryckjuskap, blót og formælíngar, allan þiófnad og fiølkýngi, svo ad í sex ár, hefir þar einginn stuldur skéd, af inn-

ausóknarfólki (heldur adeins hér og þar af ad-kommu múr- og timbur-fólki, sem vard ad leigjast til húsbyggínga, eptir eldibrand, sem þar skéd hafdi fyrir þremur árum); ei heldur féll þar til eitt einasta hórdómsbrot. Øllu því, sem í þeirra annars einfalda klædabúnadi, hafdi skin af nokkurri prakt, køstudu þeir af sjálfum sér í burtu; og, fyrir Herrans voldugu nád, er þad komid svo vídt i Zezenow, ad fyrir utan þann fagra hóp þeirra sálna, sem í sannleika umvendtar eru, er þar ecki eitt einasta stálpad barn, því sídur fullvaxin manneskja, sem ei hafi fullkomna þekkíngu á allri sáluhjálpar - lærdómsins nidurrødun.

Já, þar er eingin sá medal fullordinna, sem enn nú ómvendtir eru, er ecki hafi sannfæríngu um sannleikann, og viti hvørnig sér ætti varid ad vera, og hvørsu sitt hjartans ástand sé þvílíkt, ad hann ecki, med því ómbreyttu, kunni sáluhólpinn verda. Samt bætir Gud alltíd nýjum og nýjum vid, sem brjótast í gégnum til lífsins, jafnvel þó þad ecki skéi, í svo stórum fjølda, sem vid þá fyrstu uppvakníngu, er nærstum var almennilig. Uppvakníng þessi er og merkilig í því tilliti, nær madur athugar þad ýmisliga fólk, sem fyrir nádína umvendast hefir. Sá mesti fjøldi þess er af þeim, sem, undir síns lífs þrældóms stóru byrdi, géta naumast fied fram úr, hvørjir þessvegna vóru ádur øldúngis heimsliga sinnadir,

og lifdu í stærsta fáfrædi og blindni um andlig efni. En gæti madur nú ad þeim sömu, eptir þad þeir feingid hafa anda vísdómsins, og komi madur á tal vid þá, fær madur ei nógliga dádst ad þeirra hæverska hegdun, þeirra greindarliga tali, og þeirra djúplægu þeckingu svovel á Guds ordi, sem á hans leidslu til umveudunar sálum þeirra og annara. Börn þeirra eru svo sidsöm, eins og þaug uppalin væru í einum velsrtudum stad, en ecki á cassúbiskri bóndabygd. Svo madur sjer þá hér af, hvörsu Christindómurinn aldeilis ecki gjörir gróft, slæmt og ósidlátt fólk, heldur miklu framar hæverskt og sidsamt; jafnvel þó slíkir ecki vilji laga sig eptir heimsins hégómliga athæfi. Eitt dæmi vil eg þar til leida. Þegar einn viss Herramadur kom til Zezenow, hvör eptir ad ýmislig klögumál voru innkomin, beiddi ad bændurnir skyldu hætta ad útleggja ritninguna, þá svaradi einn bóndi honum þar til svoleidis: Nádugi Herra! þegar vinnumadur minn kvartar yfir, ad hann sé þvíngadur med ofþúngu erfidi, og vill því strjúka í burtu, edur vinna eitthvört hreckjapar, þá seigi eg til hans: minn kjæri! veitstú ecki ad þad stendur í heil. ritníngu: a d v é r e i g u m a d k r o s s f e s t a v o r t h o l d; þarfyrir, þegar þér fellur illa ad hafa svo þúngt og strángt erfidi hjá mér, þá yfirvindú þig, og krossfestú þig sjálfan! Er þetta

ecki rètt gjørdt, gódi Herra! Jú, sagdi Herramadurinn; haltú áfram ad útleggja svoleidis riknínguna!

Þegar þad há-adalliga Herráfólk kom einusinni til þessa stadar, og Fóvetiun heilsadi uppá þád, bætti hann þeirri hjartanligu og christiligu ósk vid, og sagdi: Vèr erum ydar nadar undirsátar, og oss lídur mikid vel; vèr erum sannluckuligir; vèr høfum Jesúm; vèr høfum syndanna fyrirgéfníngu og svofrv. — hvørsu sárt má oss taka þad, ef vor yfirvøld eru ecki eins luckulig, sem vèr, undersátar þeirra, erum.

Annad sinn sagdi þessi sami madur einum herramanni, hvørnig sá hlyti ad vera, er sannchristiun vera vildi, og gjørdi herramanninn svo hræddan, ad hann tók ad gráta, en leitadist þó vid, ad hafa Fóvetann af sèr med þessum ordum: bidjid fyrir mèr, ad eg géti ogsvo þóllkur ordid!

Fóveti þessi kom eittsinn til Pólen; þegar nú géstirnir í vertshúsinu heyrdu ad hann væri frá Zezenow, þreyngdu þeir ad honum, med allra-handa mælgi og spotti. Þar sem þeir nú medal annars meintu, ad hann héldi synd ad reykja tóbak, og áliti þad Christindóms-spiøll, vildu þeir erta hann upp med því, ad þeir kveiktu í pípum sínum, og spurdu, hvar fyrir hann reykti ecki líka? Fóvetiun svaradi: ad hann hefdi aldrei reykt, og gicæti þessvegna ecki vel þolad tóbak; en til þess þeir ecki skyldu meina, ad þeir í Ze-

zenow létu Christindómiun vera innifalinn í ad halda sér frá slíku, þá sannfærdi hann þá um, ad margir í Zezenow, já Prestnrinn sjálfur, reykti tóbak; og til stadfestu þvi, skyldu þeir fá sér pipu, hann skyldi reykja svo mikid sem hann þyldi. Eptir þad tók hann framar ad tala um, í hvörju Christindómurinn væri falinn og ecki falinn; vid hvört tal hans ad fólkid hrærdist mjøg, og sumir søgdu: þetta er vissuliga satt sem hann seigir, svo ætti þad ad vera! en vor Prestur hefir aldrei sagt oss þad, svo greiniliga sem þessi leikmadur. Sjálfur hefi eg og svo talad vid einn mann i Zezenow, sem lítur mikid einfaldliga út, er þad og reyndar í veraldligum efnum, en í andligum hefir hann samt stóra þeckingu; hann er ei heldur vel málifarinn og stamar; en nær hann bidst fyrir, þá flýtur talid svoleidis af vørum hans, ad þad er lyst á ad heyra.

Þvi nærst er þad og svo áddáunar = verdt, hvørsu drottinn hefir líka svo, med nád sinni, verkad medal adalsins í sama héradi. Yfir = og undir = officerar (edur stridsmanna foringjar) á samt þeirra frúm, líka svo ýmsar jómfrúr hafa feingid sanna elsku til Jesúm, og med føgnudi yfirgéfid hans vegna sín heimsligu hlunnindi. Þá tid sem eg dvaldi í Zezenow, komst eg í kynni vid 9 manns af þesshátttar fólki, og gét borid þeim þann vitnisburd, ad evangelium hefir

gjørdt þá að frómlyndum börnum þess himneska föðurs og Lambsins eptirfylgjurum. Síðan hefi eg feingið bréf um, að einn vís aðalsmaður hafi svoleiðis uppvakist og fángast af Guðs anda, án alls manna tilverknaðar, að hann er nú einn ágjætur predikari á sinn gótsi; meiníngin er: hann vitnar af alvöru fyrir bændum sínum og landsetum, að þeir séu diøfulsins börn, og biður þá og áminnir að leita Guðs hjálpræðis.

Hvílík einfeldni, hvílíkur kjærleiki, kraptur, alvara og auðmýkt, og hvílík ypparlig gáfa, að útleggja ritnínguna, að þar finst hjá þeim fullumvendtu sálum, gét og ekki nógliga með orðum útskírt. Þær vita mjøg greiniliga að seigja frá því; hvørnig Guð hafi leidt þær til umvendunar, og géta talið upp þær stundir, nær hann hafi látið þeim í tje, eina eður aðra náðargáfu. Þær tala til hjartnanna með stórum krapti.

Opt uppbyggja þær hvør aðra innbyrðis, án Prestsins nærvern, og samt er einga minstu þvíngun að finna í fari þeirra; heldur geingur allt til á: fríasta og einfaldasta hátt. Því verður ei nógliga hrósað, hvørsu framgeingni þeirra er fríálslig og tilgjørðarlaus; þar sýnir sig ekki minsta merki til hræsni eður yfirdrepskapar hjá þeim, og þar er eingimn heldur fortrygður af öðrum fyrir sína alvørugéfni, bænir eður aðrar æfíngar. Þeir láta sjá sig beint fram, rétt eins og þeir eru.

Eg var vid nockrar predikanir, og merkti strags, ad um hvørt heldst stand edur trøppu Christindómsins sem Prestrinn taladi, tók alltíd þad af fólkinu ad gráta, sem fann þad eiga heima hiá sér. Einginn Kammadist sín ad játa, ad hann enn nú væri lángt til baka; einginn heldur þóktist neitt yfir ødrum, þó hann kominn væri á hærri trøppu. Þegar talad var um þá ómm-vendtu, gáfu þeir ómmvendtu sig til kynna med gráti; þeir uppvøktu, þegar um þá var talad; þeir sem undir lógmálinu eru, þegar rædt var um ástand þeirra, sem undir því eru; og þannig lét sérhvør flockur sig í ljósi; svo eg hefdi gétad greiniliga uppskrifad, til hvørs flocks sérhvør sála heyrdi.

En svo sem þad er heimsins vísa, ad klaga yfir þeim gudhræddu, þó þad orsakaláust sé, ad þeir séu hyrdulitlir í sínum jardnesku sýslunum, og ecki rétt hlýdnir sínum veraldligu yfirvøldum, svo kann eg med gildri sannleiks ástædu, og eptir þeirra eigin yfirvalda munni vitna, ad í frá því Hra Beyer kom þángad, hefir fólkid sýndt sig lángt betri, hlýdnari og kostgiæfnari undirsáta enn ádur, svo þess yfirmenn eru vel ánægdir yfir því.

Nú svo sem drottinn hefir géfid þessum góda manni mikla nád til blessunarfulls útsædis og ríkugligrar uppskéru í hans eigin søfnudi, svo hefir hann og svo gladt hann med føgrum

hóp andligra barna í ødrum sóknum. Allt ad þessu hefir mikill fjøldi frá nágranna héradinu vitjad hans, og látid hann leida sig til Guðs-ríkis. Og eptir þad fregnin um þessa stóru náð, sem Gud veitti þessum søfnudi, vard rómbær, kom fjøldi þángad af utan-sveitar- og sóknar-fólki, til ad sjá þetta drottins verk. Med þad slag hefir Guds náð margan til fánga tekid, margan audmýkt, og margan upphvatt og leidt til þeirrar réttu þeckíngar, um þad sem hann brostit hefir; óhreinskilni margra hefur opinberast og gott og christiligt sinnislag hjá mørgum styrkst og þróast. Eg sjálfur, fyrir mína persónu, þacka mínum himneska Gudi og fødur fyrir, ad hann stýrdi reisu minni þángad, og lét mig þadan nockud þad frá bordi bera, sem fylgja mun mér inn til eylífdarinnar.

Fyrir þrem árum sídan brann nærstum því upp heill býrinn af þrumu-eldi, yfir hvørju þær sannumvendtu sálir voru aldeilis ánægdar, og einn bóndi jafnvel hrópadi: sjá, hérna eru nú vorir Gudir ad brenna og fljúga upp í reyknum! Gudi sé lof þar fyrir! Vid þad hindrudust ad sønnu margar gudligar æfíngar um hríd, medan þeir voru ad byggja upp aptur kyrkjuna og híbýli sín; þó héldu þær grundvølludu sálir eingu ad sídur vel áfram sínu Christindóms skeidi; og eptir þad býrinn var til fulls uppbygdur, tóku þær fyrir sig alldeilis sømu hegdun, sem ádur.

Lokſins vil eg nockud minnaſt á Hra Beyers kénníngar-máta og embættis færſlu, med fl. Hans kénníng er ekta-evangeliſk. Eins og hann vid ſíns embættisbyrjun — þegar hann þó kom til eins mikid andvaralauſs ſafnadar — beitti hvørki ádeilum né háreiſti, ſvo gjørir hann þad nú øllu ſídur. Hans heila adferd er, ad bidja fólkid: látid ſætta ydur vid Gud! Hann gétur gjørdt fólkinn evangelíum míkid ſætt, Guds náð í Jeſú Chriſto yfrid dýrmæta, og Chriſtindómſins ſanna áſigkomulag nærſta dæiligt. Sálirnar verda ſvo leiddar beinleidis til Jeſúm og hans fríu nádar; og med þad ſlag fá þær ſneidt hjá mørgum þeim afvegum (á hvørjum margar adrar — jafnvel hreinſkilnuſtu ſálir reika ár og dag, af því þær breſtur góda uppfrædíngu) og þær þeſs-vegna ná ſtrags hlutdeild í hans ſælu og dýrdligu endurlauſn. Þegar ſálirnar eru um ſannleikann ſannfærdar ordnar, þá er þeim kénnt, ad nér ríſi allt á því, hvørt þær byrja vilji ad inngánga í umvendunarinnar ordu. Fyrſt ſannfærir hann þær um þá ſynd, ſem býr í þeim og er þeim djúpt inngróin; ſídan kénnir hann þeim ad bidja um þá ſannfæríngu, ad ecki alleina ſéu þeir ſynd-arar, heldur og ſvo ad þeir ſem ſyndarar fylli-liga ſéu undir Guds reidi (og þad állteins þó þeir finni hjá ſér margar nádar-hræríngar), ad þeir liggi undir løgmálſins bølvun, og ſéu for-dæmíngar makligar manneſkjur. Vidurkénni þær

nú þetta og trúi því, þá kénnir hann þeim máta til að finna til þessa sjálfar í sjálfum sér. Ef sálirnar standa nú stöðugar í þvílíkri tilfinníngu, þá verður Chrístur þeim strags fyrir augum afmálaður, hvörsu hann algjörliga gaf sig út í vorn stað og fyrir oss alla; hvörsu hann var þar til af föðurnum settur, að hann skyldi taka allar vorar syndir uppá sig, bera Guðs reiði, verða semi bannfærður, smacka fordæmínguna og fullkomliga uppfylla lögmálið og þetta alltsaman vor vegna, og er þannveg orðinn orsök til sáluhjálpar, öllum þeim sem á hann trúa.

Svo festa þá syndararnir sjón á Jesú, leita náðar hjá hönum, og halda svo leingi áfram, sem vesælir syndarar, sekir Guðs reiði og fordæmíngar, að biðja hann, að hann vyrðist að taka frá þeim þeirra synda sekt og straff, og géfa þeim aptur sitt réttlæti, nns þeir öðlast það, sem þeir óska sér. Þeir dragast þessvegna ecki leingi undir lögmálinu, né skýla sér með sínu eigin réttlæti, heldur húngra og þyrsta eptir Jesú, og biðja hann, að hann fyrirgéfi sér allar sínar syndir. Þetta öðlast nú sálirnar að mestu leiti strags og það með fastri fullvissu, fyrir heilanda innvortis vitnisburð. Þar af kénnur þeirra stóra gladværð og örugleiki, vegna þess þær eru vissar um sína réttlætíngu, fyrir Jesú fullkomna — sér tilreiknaða — réttlætis sgkir. Þetta kalla þeir endurfæðíngu, fyrir hvörja þeir orðnir

séu Guds børn; enda eru þeir þá og svo enn nú børn og stunda eptir barna sinnislagi. Hvør sem réttlættur ordinn er, sækist eptir ad verda dýrdligur; þó á eingan annan hátt, enn med því stødugliga ad høndla þad, sem þeim veitt er í Christo Jesú.

Hra Beyer er í umgeingni sinni vid alla mikid gladvær og øruggur; hann er aldeilis ecki stúrandi né nidursleiginn. Ástædur hans þar til eru, ad Gudi er ecki þént med þrælum, því af þeim hefir hann heila heiminn fullan, og diøfullinn hlýtur líka ad þéna hønum sem þræll; en børn vill hann hafa, og því girnist hann ad menn skuli þjóna sér, med barnligum og gladværum anda.

Heimsins børn umgéngst Presturinn vingjarnliga, svo hann talar vid þaug, þó ecki alltíd um betrun og umvendun, því med þad slag gjørdi hann þaug annadhvørt ad hræsnurum, ellegar yrdi þeim leidinligur, heldur lagar hann sig eptir þeirra tilhneigíngum og náttúrufari. Fyrir þad fá þeir kjærleika til hans, koma opt á hans fund, og géfa hønum svo tækifæri smamsaman ad kénna sér nockud; á móti hvørju þeir þá miklu fúsligar taka, enn ef hann alltíd væri sorglyndur og stúrinn og vildi sífeldliga predika fyrir þeim.

Hans opinberu rædur eru óvidjafnanligar; þegar hann prédikar, verdur nærfeldt allur søfnudurinn hrærdur, svo fólkid grætur stundum svo

mikid allt í einu, ad hann verdur ad hætta ad tala. Þegar einn ókunnugur (úr ødrum sóknum) kémur í kyrkjuna, enda þó það sé gudlastari og spottari, verdur hann optast nær uppvakinn; og stundum verda adkomandi menn svo fullir af hrøsemi, ad þeir hlaupa út úr kyrkjunni. Skømmu ádurenn eg kom þar, hafdi einn stridsmanna yfirmadur komid þángad med sér einum stridsmanni, hver ed vard stakliga ángurbitinn, og Guds nád kugr fastliga á hans hjarta, svo hann fer ad gráta, undir eins og madur byrjar nockud vid hann, um andlig efni, ad tala. Eins géck til um eina skjækju utansóknar.

Þessi Prestur lidar sannleika Guds orda mikid greinilliga sundur, og géfur tilheyrendum sínum ljósan skilníng þar á; en hefir þar hjá einstaka og frábæra gáfu ad uppvekja sinnishrærfíngarnar. Hann hefir andans krapt, og þar til sterka røddu. Hann talar af djúplægri reynslu, og madur má undra sig yfir, hversu kostgjæfiliga hann adgjætt hefir Guds leidslu á sínum tilheyrendum, ad hann gjetur svo merkiliga opinberad hjørtun. Hann lagar og svo rædu sína svoleidis, ad hann í øllum prédikunnum framsetur nockud það, sem á vid ástand allra sálna.

A hátídum géfur Gud honum og hans tilheyrendum stakliga nád, og þeim sídarsta deigi fylgir opt mest blessan. Næstlidinn Páskadag predikadi hann út af þessum Jesú ordum: Eg

em upprisan og lífid, og s. fr. og sýndi þann fyrsta dag: hvernig Jesú uppríſa kémur óumvendtum til nota; þann annan dag: hvernig þeir ydrandi skuli sér hana í nýt færa; og þann þridja: hvernig hún verdi þeim réttlættu og dýrdligu ad notum. A svoddan hátídis-dögum koma optast margir adkomandi, og jafnvel ómvendtir, til kyrkju hans; til ad halda þar hátídina; og þar fólk hefir þá nockurra daga frelsi frá erfidi, og heyra þessvegna ecki ad eins eina heldur margar prédikanir og bænatíma, svo flýtur þar almenniliga stór blessan af, og því leingur hann talar, því framar lifir hjarta hans í honum. Hann fær og svo opt tækifæri ad prédika á ödrum stödum, hvar hans erfidi líka svo færir ávöxt; svo hann á fagran hóp andligra barna, þar í nálægum sóknum, sem heldur fer í vöxt.

Kostgjæfni hans er stór, og hann óþreytanligur. Hann hlýtur hvörn sunnudag ad halda þýdska og cassúbiska prédikun, tekur þar hjá nærstum því á hvörjum sunnudeigi vid alltarisgaungu fólki, þar þeir sann-umvendtu gánga mjög opt til Guds bords; svo hann hefir þá optast nær frá midjum morgni, fram yfir middeigi, ad sýsla vid skriptamál, prédikun og alltaris gaungu; hvar hjá og svo er athugandi, ad hann bædi reynir sterkt á sig i prédikun, og er líka svo sjálfur fyrir saungnum, þar hann hefir kéunt

sofnudinum lag vid þá nýu andríku sálma, hönum til stórrar uppbyggíngar.

Þann sídari part dagsins heldur hann aptur þýdskan og cassúbiskan uppbyggíngar tíma. Heilu vikuna, í gégn, hefir hann sífelda adsókn af sínum tilheyrendum; ýmist kémur til hans einn vesæll syndari, ýmist einn til nádarbekinn; sá eini til ad gráta fyrir hönum yfir nockru, sá annar til ad gledja sig yfir nádinni, en bádir til ad bidja hann um uppfrædíngu, hverja hann þá strags, í fám ordum, géfur þeim, eptir sakarinnar ástandi.

Svo hefir hann og sjaldan hús sitt tómt af fólki frá ödrum sóknum, sem kémur þángad ad sjá hann og hans Zezenow. Adurenn bruninn skédi, uppfrædði hann, sjálfur Bærarlus börn í sinn eigin húsi. Líka lét hann sína tilheyrendur, eptir messu, passa uppá adkomandi fólk, til ad bjóda því inn til sín; tók svo einn bóndi 4 edur 5, annar jafnmarga, og hann sjálfur 12 til 20. Yfir bordum taladi hann sjálfur ecki mikid, en valdi til þess einhvern réttskickadan bónda, þvílíkan, sem hann áleit hæfan þar til, eptir géstanna ásigkomulagi. Sami hlaut þá ad seigja opinberliga frá leidslu Guds á sér, af hverju géstirnir urdu opt framar sannfærdir og styrktir, enn af uppbyggiligum predikunum. Þegar lærdir menn edur ædra stands koma til hans, er hann vanur ad hafa undirtalad vid bændur sína, ad þeir skuli þá koma til sín, til ad spyrja sig um eitthedur

annað andligt efni, ellegar og leita tækifæris að tala nockuð fyrir þeim aðkomnu. Hvar af margir hafa komist til sannfæríngar, uppvakist til Jesú eptirfylgðar, og orðið þannig innleiddir í stand náðarinnar.

Hann er mjøg gjafmildur við hvørn og einn, er gèstrisinn í kjærleika við alla, sem til hans koma, og greiðir før þeirra heim á leið aptur. Hann gèfur ecki einúngis svo leingi hann hefir nockuð, heldur selur hann og svo hvað hann hefir og gèfur fátækum; hann ber alls einga bugsýki fyrir því tímanliga, því hann seigist hafa gjørdt samníng við Guð sinn, að hann skuli þjóna hønum af øllum kroptum, en hann skuli forsorga sig: Þegar eg eitt sinn afsakaði mig frá, að þyggja hans stóru velgjørðir, sagði hann, það væri ósjeð, hvørt eg ætti hans brauð, eður hann mitt; því feingi hann ecki svo mørg Guðs børn í sitt hús, hefði hann eckert af að lifa, með því kall sitt væri fátækara, enn það allra fátækasta í Wurtenborg; þar launin væru innifalin í tómum økrum, til hvørra ræktunar hann þyrfti að halda 16 manns, og æði mikinn peníng. Samt hafði þessi Guðs maður alltið ríkugligt til að gèfa, líka sem það er og hans vandi, að gèfa tilheyrendum sínum stícki brauðs, með osti eður kjøti ofaná, nær þeir til hans koma. Það er og svo aðdáunarverdt, að það ber opt við, að þegar

einhvør framandi er á veigi ad heimsækja hann, er hønum send gófa nockur annarstadar frá.

Midt í þvílíkri óbreyttri ydjusemi í drottins víngardi, er þó Hra Beyer þar hjá gódur búmadur (nefnil. hyrdir vel jørdn sína og búskap), þó án þess ad vanrækja hid allraminsta sitt embætti; því nær einhvør sálar-sok tilfellur, lætur hann allt annad liggja og standa, og setur aldeilis ecki á sig, hvørn skada hann þar vid lídur í búskapnum.

Eingan útilykur hann frá sacramenti, því opinbera stórsyndara hefir hann ecki í sínum søfnudi; en þó hljóta tilheyrendur hans, er til altaris gánga vilja, ad géfa hønum þad til kynna fyrirfram, og í skriptastólnum svara uppá ýmislig spursmál; til dæmis: hvørt þeir viti Jesú augnamid í tilliti sacramentisins? hvørt þeir þecki sín hjørtu, ad þeim sé svo og svo varid? hvørt þeir vilji brúka sakramentid sem eitt medal til síns rétta augnamids? hvørt þeir á ytsta deigi vilji vitna, ad hann hafi géfid þeim nægiliga uppfrædíngu þar um, advarad þá, áminnt þá og s. fr. Þar eptir meddeilir hann þeim aflausnina med handar uppáleggíngu, og þad heil. sakramenti kriúpandi fyrir altarinu. Þegar hann vitjar sjúkra, minnir hann þá ad eins á þad, sem þeir ádur allareidu vita, og hann hefir ként þeim.

Hann leitast vid ad fá þá lukustu manneskju þar á stadnum í sína þénustu, hvør þá hefir eckert tækifæri til syndar í hans húsi, heldur umgéngst marga velþeinkjandi, nýtur alls kjærleika af þeim og sjer og heyrir mikid gott; og á þennan hátt hafa margir yfirunnist. Han talar vid þá á vissum tímum, lætur þá heyra á, hvørsu hann og adrir bidjast fyrir, og sjá góð eptirdæmi. Ecki stormar hann uppá þá, med ad drífa þá til umvendunar, heldur lætur þá ad eins sjá og heyra til annara þad góda, og slíkt vekur hjá þeim sterka sannfæríngu. Ad eins seigir hann ástundum vid þá, mikid vingjarnliga og einfaldliga: æ eg veit þú líka villt verda sáluhólpinn, þú villt og svo komast í himnaríki! Hvílíka verkun ad slík ord hjá þeim gjøri, gét eg ecki nógsamliga útlistad.

Drottinn vardveiti søfnud þennan í sínu samneyti, og géfi hann verda meigi mørgum til góds eptirdæmis; hann safni honum, á samt mér og ødrum sínum børnum, frammi fyrir sínum dýrdar-tróni! Þar viljum vér allir endalaust þacka honum fyrir alla þá gjædsku og trúfesti; sem hann oss, hér í sínu nádar-ríki, andsýndt hefir.